Gísli Egilsson

# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga, gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

8. árg. WINNIPEG, NÓVEMBER 1893. Nr. 9.

## *DAVÍÐS SÁLMR 130.*

Eftir séra VALDEMAR BRIEM.

(Lag: Þín miskunn, ó, guð, er sem himininn há.)

1. Úr djúpinu kalla eg, drottinn, til þín
í dýrðinni himnesku þinni.
Ó, virzt þú í hæðinni heyra til mín
og hyggja að grátbeiðni minni.

2. Ó, drottinn, ef misgjörðir muna þú vilt,
þá mun eg ei staðizt fá dóminn;
en iðrunarkvak mitt og andvarp tak gilt,
þú, eilífi vegsemdarljóminn!

3. Eg reiði mig, guð, ei á réttlæti mitt,
mig reiði' eg á gœzkuna þína,
og bíð þess, að auglitið blessaða þitt
þú bjart látir aftr mér skína.

4. Eg bíð hér sem vörðr um niðdimma nótt;
á nóttina tekr að líða.
Eg bíð þess, að röðullinn renni nú skjótt,
þú, réttlætissólin hin blíða.

5. Þú, Ísraelsvörðr eg vona þig á;
í vestrinu' er hnigin þín reiði;
í austrinu rennr úr eilífðar sjá
þín elskunnar sólin í heiði.

6. Þótt djúp eins og höfin, þótt há eins og fjöll
sé hörmungin, neyðin og syndin,
þig rúmar ei geimr né eilífðin öll,
þú, eilífa miskunnarlindin.



## *FJÁRSJÓÐRINN MIKLI.*

Prédikan út af Matt. 13, 44-50. — Flutt í Winnipeg sunnudagskvöld 14. Okt. síðastl. af ritstjóra „Sam.".

Hefir þú fundið nokkurn fjársjóð? Áttu nokkurn fjársjóð? Hefir þú trú á því, að nokkur fjársjóðr sé til? Leitar þú að nokkrum fjársjóði?— Mér finnst eg heyri allar þessar spurningar, þegar eg hugsa um fyrsta versið í þessum texta. Mér finnst þetta upphafsvers texans koma með allar þessar spurningar til einstaklinganna hér í þessum söfnuði. Mér finnst hinn ósýnilegi konungr kristninnar í gegnum textann vera að spyrja hina einstöku þegna í ríki hans að öllu þessu. Og það er meira en ímyndan eða tilfinning hjá mér, þetta; því svo framarlega sem textinn og sú bók, sem hann er tekinn úr, er í sannleika guðs orð, eins og gjörvöll kristnin játar, þá hljóta þessar spurningar, sem heyrast í gegnum textann, að vera spurningar frá guði sjálfum. — En ef vér hugsum með nokkurri alvöru um þetta guðs orð, þessa samlíking Jesú Krists um guðs ríki sem fésjóð fólginn á akri, þá getum vér heyrt enn þá fleiri spurningar snertandi sama efnið. Ef þú átt einhvern fjársjóð í eigu þinni, eitthvað það, er í sannleika er mikilsvirði, hvernig fer þú þá með þann fjársjóð? Er ekki hætt við, að þú glatir honum? Ertu, ef til vill, að missa hann? Og ef hann er að fara eða þér sýnist hann vera að fara, ertu þá hryggr eða áhyggjufullr, eða eins og ekkert sé um að vera? Sé fjársjóðrinn á förum, eða ef svo sýnist, gjörir þú þá nokkuð til þess að varna því, að svo fari? Hve

mikils virði er þér fjársjóðrinn? Hvað gjörir þú til þess að tryggja þér eign hans í framtíðinni? Eða heldr þú, ef til vill, að ekkert þurfi að gjöra í þessu skyni? — hættan sé engin fyrir því, að fjársjóðrinn missist eða verði frá þér tekinn? — Jú, hættan er þar. Það sýnir sig í gegnum alla sögu mannkynsins, að hverjum einasta fjársjóði má glata, og dýrustu fjársjóðirnir sýnast vera í allra mestri hættu. Og þeir fara allir, undantekningarlaust allir, ef þeir eru ekki vel og vandlega geymdir; og þeir fara meira að segja, flestallir, fyr eða síðar, hversu vel sem þeir eru geymdir. En sá, sem kann að meta sinn fjársjóð, sá, sem virkilega elskar fjársjóðinn sinn, sá, sem skoðar nokkuð í eign sinni sannkallaðan fjársjóð, — hann heldr í hann dauðahaldi, þó að hann viti, að hann hlýtr að missa hann, og aldrei eins og þá. Heldr þú þá dauðahaldi í fjársjóðinn þinn? — Haldið þér hér allir dauðahaldi í bezta fjársjóðinn yðar? Hvað leggr hver einstakr yðar í sölurnar fyrir sinn dýrmætasta fjársjóð? Hvað leggr þessi söfnuðr í sölurnar fyrir þann dýrmætasta fjársjóð, sem honum hefir verið trúað fyrir af guði almáttugum?

Mig langar nú til að vitna það fyrir þessum söfnuði, yðr öllum, sem eru hér staddir í guðshúsi þessu í kvöld, að lífið er einskisvirði, nema því að eins að maðr hafi fundið einhvern virkilegan fjársjóð, — að lífið er einskisvirði, svo framarlega sem maðr hefir ekki augu fyrir neinu því, sem í sannleika er mikils virði, — sér ekki neitt það, sem hefir virkilega guðlegt gildi, neitt það, sem vert er að elska og lifa fyrir, og í gleði og sorg, í meðlæti og mótlæti, í lífi og dauða að halda í dauðahaldi. Og mig langar líka til að segja það, og segja það ekki í mínu nafni, heldr í nafni hins almáttuga, er talar í samvizku hvers einasta manns, í nafni hans, sem gefið hefir oss Jesúm Krist og það heilaga orð, sem við hann er kennt, — að þeir, sem hafna hinum œðsta fjársjóði, sem til er, fjársjóði guðs ríkis, þeir, sem fótum troða þá dýrustu perlu, sem til er í andans ríki, kærleiksopinberan kristindómsins, — þeir eiga ekki skilið að eignast neinn fjársjóð, þeir verðskulda ekki, að þeim sé gefin ein einasta góð gjöf af hinum almáttuga guði í himninum. Allir þeir, sem einhverja slíka góða guðs blessan eiga í eigu sinni, eiga ekkert betra skilið en að þeir væri sviftir slíkri blessan, slíkum

góðum gjöfum guðs, slíkum himneskum fjársjóðum — fyrir fullt og allt.

En nú kemr fyrir hverjum einstökum af oss út af guðspjallinu spurningin um það, hvort guðs ríki, eða hinn andlegi heimr, sem Jesús Kristr hefir opnað mönnum hér á jörðinni og sem vér allir í hans nafni erum leiddir inn í, stendr virkilega fyrir oss sem fjársjóðr eða dýrmæt perla — eins og hann sjálfr, frelsarinn, vitnar að sé hér í textanum. Eftir því sem hans eigin orð hljóða, er guðs ríkið hans líkt fjársjóði, fólgnum á akri, sem maðr nokkur fann, og er hann hafði fundið þann fjársjóð, hélt hann honum leyndum, en af fögnuði út af fundinum flýtti hann sér burt og seldi allar eigur sínar og keypti svo akrinn. Og til þess að skýra þetta enn þá betr kemr Jesús með sömu líking af guðsríki í annarri útgáfu. Hann segir, að guðs ríki sé líkt kaupmanni, er leitaði að góðum perlum, og er hann hafði fundið eina dýrmæta perlu, þá hafi hann farið, selt allt, sem hann átti, og keypt perluna. Svona mikils virði er kristindómrinn eða guðs ríki, eftir dómi drottins Jesú Krists. Svona mikils ætlast hann til að allir lærisveinar sínir meti hann. En hvað mikils virði er þér þá kristindómrinn? Hvað mikils virði er yðr hverjum fyrir sig guðs ríki? Hvað mikils virði er ríkið, sem frelsarinn sérstaklega ræðr yfir, þessum söfnuði? — Eg býst við, að margir yðar vilji svara: Guðs ríki er meira virði en allt annað; — kristindómrinn er meiri og dýrmætari en öll önnur gœði. Ef guðs ríki væri frá mér tekið, þá væri það hið mesta ólán, sem eg gæti orðið fyrir. Ef kristindómrinn væri tekinn burt úr því mannfélagi, sem eg tilheyri, þá væri ekki í því mannfélagi lifandi. — Eg tek þetta svar gilt; eg geng inn á það, að kristindómrinn sé svona mikils virði. Það þýðir lítið þó eg samþykki þetta svar í mínu eigin nafni; en eg samþykki það í Jesú nafni. Tek svarið gilt í guðs nafni. Og um leið og eg segi þetta, má eg til að taka það fram, að allir, sem standa í kristnum söfnuði, þessum söfnuði og öllum öðrum kristnum söfnuðum, eru í rauninni skyldugir til að gjöra þessa játning um ágæti kristindómsins. Því að ef Jesús Kristr ekki veitir hin œðstu gœði, ef ríkið andlega, sem hann leiðir mennina inn í ekki er meira virði en allt annað, meira virði en öll önnur gœði til samans, sem mönnum geta veitzt, þá fellr algjörlega burt öll

ástœða til að heyra kristnum söfnuði til, trúa á Jesúm Krist og ákalla hann sem drottin og frelsara. Og mér finnst nú annars, að það ætti að vera undr auðvelt að sannfœrast fullkomlega um það, að guðs ríki eða kristindómrinn er virkilega svona mikils virði. Því hugsið yðr, að allt það, sem kristindómrinn hefir komið með inn í mannfélag vort, væri allt í einu horfið og orðið að engu. Hugsið yðr, að mannfélagið, sem þér tilheyrið, væri allt í einu orðið heiðið, allt það tekið burt úr löggjöf og stjórn landsins, sem er af kristilegri rót runnið. Ef þér eigið örðugt með að gjöra yðr ljóst, hvernig mannfélagið liti út eftir að öll spor eftir kristindóminn væri þar þurrkuð út, þá eru sumir, sem geta minnzt þess, hvernig saga vorrar eigin þjóðar leit út áðr en ljós kristindómsins varð henni sýnilegt. Og þeir, sem eru dálítið lærðir, þeir hugsi til þess, hvernig almennings-ástandið var hjá hinum menntuðu heiðingjum í fornöld, Rómverjum og Grikkjum, áðr en boðskaprinn um guðs ríki barst til þeirra, áðr en guðs ríki þrengdi sér inn á þá. Það þarf annars engan sérlegan lærdóm til að vita þetta, því nýja testamenntið sýnir það til fullnustu, þó ekki væri nema 1. kapítulinn af Rómverjabréfinu. Þér lesið dagblöðin margir hverjir. Hafið þér þá ekki lesið þar svo mikið, að þér hafið tekið eftir því, hve óendanlega miklu bágara mannfélagsástandið á þessum yfirstandandi tíma er í heiðingjalöndunum — þeim menntuðu einmitt, eins og t. a. m. í Kína — heldr en í þessum löndum, þar sem kristin kirkja hefir náð sér niðri. — En eg sleppi þessu, sleppi jafnvel allri menntaninni og mannúðinni og réttlætinu, sem komið er inn í mannfélagssöguna fyrir áhrif frá kristindóminum, — sleppi því alveg, hve óheyrilega mikið heimsríkið þetta, sem vér allir, trúaðir og vantrúaðir, tilheyrum, hefir grœtt á guðs ríkinu, sem Jesús Kristr kom til þess að grundvalla hér á jörðu og boða mönnum og leiða þá inn í. Mörgum yðar skilst það, ef til vill, ekki til hlítar, hve mikið mannfélagið í þessu landi og öðrum menntalöndum heimsins á kristindóminum að þakka. En snúum oss þá að hinu persónulega lífi einstakra manna nær og fjær. Sjáið þér ekki, hvílík makalaus blessan það hefir verið fyrir lærisveina drottins Jesú til forna, að þeir af honum voru leiddir inn í guðs ríki? Kemr ekki öllum saman um það, að *þeir* hafi grœtt óendanlega mikið við að verða kristnir menn?

þeir grœddu vitanlega ekki í öllu tilliti á því að guðs ríki varð eign þeirra. Fjarri því. þeir voru með sinni kristnitöku leiddir fram í hið harðasta stríð. þeir urðu fyrir þessa guðsríkiseign sína að líða dœmalaust mikið illt. þeir höfðu svo að segja heiminn allan á móti sér. En samt var gróðinn þeirra alveg ómetanlegr. „Eg álít allt fyrir tjón hjá því ágæti að fá þekking á Jesú Kristi, drottni mínum“ — segir einn þeirra, og bœtir við, að fyrir hans sakir hafi hann misst allt og meti það ekki meir en sorp, svo hann ávinni Krist (Fil. 3,8). Og hið sama gátu þeir allir sagt. Enda sagði frelsarinn þeim þetta fyrir strax eftir að hann var tekinn til að leiða þá inn í ríkið sitt: „Sælir eruð þér, þegar menn atyrða yðr, ofsœkja og tala gegn yðr allskonar illyrði mín vegna, en þó ljúgandi. Fagnið og verið glaðir, því yðar verðkaup er mikið á himnum“ (Matt. 5, 11—12). Upp á þá menn, sem hér um að rœða, má sannarlega heimfœra þessar líkingar frelsarans í textanum: um manninn, sem seldi aleigu sína til þess að geta keypt akrinn með hinum hulda fjársjóði, og um kaupmanninn, sem keypti perluna dýrmætu fyrir allt, sem hann átti til. Svona mikils möttu þessir fyrstu lærisveinar Jesú það, að mega tilheyra ríki hans. Og alveg jafn-mikils virði hefir þetta sama ríki guðs vitanlega verið óteljandi sálum innan kristninnar gegnum aldirnar allt fram á þennan dag. Menn sjá aldrei eins vel, hvílík blessun það er að mega vera kristinn maðr eða tilheyra guðs ríki eins og þegar dimmar af nótt mótlætisins. það sýnist einatt í meðlætinu eins og menn geti svo hœglega komizt af kristindómslaust. En þegar dagsbirta hinnar jarðnesku velgengni er horfin, þá, guði sé lof, koma mannssálirnar hópum saman til drottins til þess að halda sér dauðahaldi í hann og hafa hjá honum vist í ríki hans náðar.—Eg hefi nú meira í huganum en það, sem vanalega er kallað mótlæti, nokkuð, sem iðulega rís upp í mannlegu lífi með sínu allra mesta afli á mótlætisins tíð. Eg er að hugsa um það, þegar samvizkan tekr að afsaka manninn, syndir liðinnar æfi rísa upp í endrminningunni, ein ásökunin kemr fram í sálinni eftir aðra fyrir afglöp umliðins tíma; — maðrinn sér, hve mikill syndari hann er, hefir ávallt verið; sér sig sekan þar sem hann áðr þóttist sýkn, sér svörtu skýhnoðrana í undangengnu lífi sínu stíga upp frá hafi endrminninganna, eins og þeir Elías forðum frá Karmel-

fjalli sáu ský sem mannshönd rísa upp frá Miðjarðarhafinu, sem allt í einu varð stœrra og stærra og fœrðist nær og nær, þangað til himininn var almyrkvaðr. þannig fœrist skugginn af syndum liðins tíma, smásyndunum, sem þá voru kallaðar, einatt skyndilega og ómótstœðilega yfir mann, þegar mótlætið — líkamlegt mótlæti — er tekið til að berja á dyrnar. þær koma, þessar synda-endrminningar, svo eðlilega yfir mann, þegar máttrinn til að halda þeim burtu frá sér sökum hins ytra mótlœtis er farinn. — Eg hugsa nú til einnar átakanlegrar sýningar hjá hinu mikla norska virkilegleikaskáldi, Hinrik Ibsen. Einn ekta veraldarmaðr, sem lifað hefir andvaralausu eigingirnislífi og farið víða um lönd, kemr loks, þegar langt er liðið á æfina, heim aftr til síns föðurlands. Hann hafði óteljandi syndir á samvizkunni frá öllum tímabilum æfi sinnar, en samvizkan hafði allt af verið steinsofandi. Nú veit hann, að ekki getr verið mjög langt eftir. Hann fer að óra fyrir því, að eitthvað sé að innanbrjósts og að eitthvað ískyggilegt vofi yfir honum í hinum ókomnu örlögum. Og þegar hann er aftr á ný heima í föðurlandinu, fara syndirnar frá œskuárunum að koma fram hrópandi í endrminningunni. Svo er hann þá staddr þar uppi á öræfum eða heiði nokkurri — burtu frá mannabyggðum. Kaldr vindr blæs þar á heiðinni í fangið á honum. Margt undarlegt ber nú þar fyrir hann, og eitt af því þetta: Hann sér hnykla eða hnoðu velta áfram fyrir vindinum á móti sér, — allt af fleiri og fleiri. Og þessi hnoðu hafa mál. Hann heyrir, að þau tala um leið og þau feykjast fram hjá honum. þau koma í mörgum hópum. Hann spyr einn hópinn, hvaða verur það sé. „Við erum góðar hugsanir, sem þú ekki hefir hugsað“ — hljóðar svarið eins og frá ótal munnum. Og svo koma svörin frá hinum hópunum: Við erum góð orð, sem þú hefir ekki talað. Við erum góð verk, sem þú hefir ekki gjört. Við erum illar hugsanir, sem þú hefir hugsað. Við erum ill orð, sem þú hefir talað. Við erum ill verk, sem þú hefir framið.—þér skiljið víst, að samvizkan mannsins kemr með allar þessar raddir. Og þeir eru vissulega hér til, sem vita, að þetta er ekki tómr skáldskapr, eða réttara, að þetta er ekta skáldskapr, skáldskapr, sem hefir átakanlegan virkilegleik á bak við sig. þegar nú gegnum samvizkuna heyrast slíkar raddir á dimmri mótlœtisnótt, og mannssálin ekki getr útvegað sér

frið fyrir þeim, og enginn mannlegr kraftr dugir til að þagga raddirnar niðr, þá er það blessuð tilhugsan, að vita, að til er guðs ríki, þar sem almáttugr frelsari ræðr og býðr öllum angruðum sálum fyrirgefning og frið, — frelsan frá öllum hinum hrópandi syndum frá liðinni tíð. — Munið allir eftir því, að þetta er ekkert æfintýri. Og hugsið um það, reynið að gjöra yðr það ljóst, að það er nákvæmlega eins mikið varið í það andlega ríki, sem þér eruð leiddir inn í með kristindóminum, eins og Jesús vitnar í hinum tveim líkingum texta vors. Allt annað yðr tilheyrandi er sem ekkert að reikna móti þeirri náð að mega ákalla guð sem sinn frelsara í lífi og dauða. Og hugsið þá um það allra snöggvast, hvað mikið væri misst, hvílíkt óendanlegt tjón það væri fyrir hvern einstakan yðar, ef guðs ríki væri frá yðr svift eða með öðrum orðum kristindómrinn ekki lengr til fyrir yðr.

En hvers virði er yðr þá guðs ríki eða náðarveiting kristindómsins eftir því, sem þér vitnið um það með lífi yðar? — Vottið þér það með lífi yðar, lífinu á sunnudögunum og lífinu á virku dögunum, að þér metið þetta kristindómsmálefni meir en allt annað?—Eg ætla að láta hvern einstakan svara þeirri spurning fyrir sjálfan sig. Sjálfr vil eg engu svara í yðar nafni. En eg ætla að minna yðr á eitt: Eins víst og maðrinn í hinu mikla skáldriti Ibsens heyrði hin yfirnáttúrlegu hnoðu tala, er þau feyktust af vindinum fram hjá honum, heyrði þau vitna það, að þau væri þær eða þær vanrækslusyndir eða yfirtroðslusyndir úr hans eigin lífi, eins víst talar líf hvers um sig af yðr um það, — talar, þótt allir gengi steinþegjandi, um það, — hvað mikils þér í reyndinni metið kristindóminn eða það að mega tilheyra guðs ríki. Guð almáttugr heyrir vitnisburðinn, sem útgengr frá lífi hvers einasta manns í kristninni, um það hve mikils sá sami maðr metr hina himnesku náðargjöf guðs ríkis. — Steinarnir tala. Hví skyldi þá ekki verk mannanna tala, svo að heyrðist til himna?

Það var hér í kirkjunni á sunnudagskvöldið síðasta talað um kærleikann, — þann kærleika, sem í því er fólginn að elska menninna, sem með manni ferðast í gegnum lífið. Í nafni drottins vors Jesú Krists skal eg staðfesta það með því að minna á orðin hans: Elskið hver annan. En munið þá líka eftir því, að

það er heilög skylda yðar og allra annarra, sem nefna sig með nafni drottins, að elska málefnið hans, œðsta málefnið, sem til er, málefni guðs ríkis. Hún fer í handaskolum, elskan yðar til náungans, ef þér viljið ekki veita því œðsta málefni, sem til er, guðsríkis-málefninu drottins, rúm í hjörtum yðar. „Leitið fyrst guðs ríkis og hans réttlætis“ — segir Jesús. það eru margir menn, sem í staðinn fyrir að gjöra þetta láta guðs ríki eða málefni kristindómsins sitja á hakanum fyrir öllu öðru. Mér heyrist nærri því, að á meðal vors fólks sé þetta hið almennasta. En hættið þeirri óhœfu. Ef þér viljið kristnir vera, látið guðs ríki æfinlega vera fyrsta málefnið yðar, — munandi eftir því, að það getr á hverri stundu komið að því, að þér vilduð fegnir gefa allt, sem þér eigið, til þess að hafa guðs ríki — frið og heilags anda fögnuð — í sálum yðar. Hann seldi aleigu sína, maðrinn í textanum, til þess að kaupa fjársjóðinn. Og sama gjörði kaupmaðrinn til þess að eignast hina dýrmætu perlu. þeir hafa gjört hið gagnstœða, ýmsir af þjóð vorri hér. þeir hafa selt burt hið andlega ítak sitt í guðs ríki til þess að eignast — ekki akr, heldr haglendi í ríki vantrúarinnar. þeir, sem láta guðs ríki sitja á hakanum fyrir öllu öðru, en standa þó að nafninu í hópi kristinna manna, eru komnir á hálfa leið á eftir þessum mönnum. Og þeir verða fyr eða síðar í þeirra tölu, frá guðs sjónarmiði að minnsta kosti, ef þeir ekki gjöra meiri alvöru en nú er af sínum kristindómi.

Eg hefi enn ekki hreift við hinni seinustu líking textans, þar sem Jesús líkir guðs ríki við net, er lagt var í sjó og safnaði í sig alls konar fiski. Og er netið var fullt, drógu menn það upp í fjöruna, settust síðan og söfnuðu góðu fiskunum í ílát, en köstuðu hinum óætu út aftr. Eg þarf ekki að hafa fyrir því að útleggja þessa dœmisögu, því Jesús gjörir það sjálfr með berum orðum. Hann segir, að líkingin eigi að tákna aðskilnað vondra manna frá góðum á dómsdegi, og vér höfum ekki minnsta rétt til að draga hót úr þessari þýðing, sem frelsarinn gefr sínum eigin orðum. En eg heyri spurt: Hvort dregr hann þá ei að landi seinna? Eða með öðrum orðum: Mun drottinn eigi eftir að hann hefir fellt sinn fordœmingardóm gefa hinum dœmdu fœri á að komast inn á land lifandi manna? það væri notalegt fyrir tilfinning vors náttúrlega

manns að svara já upp á þessa spurning. En það já yrði fyrst og fremst þvert ofan í opinberan guðs orðs yfir höfuð, og í annan stað algjör meiningarleysa samkvæmt orðalagi þessarar líkiugar. Er nokkurt vit í því, að dauðir, rotnaðir og þar af leiðandi óætir fiskar, sem eitt sinn hafa verið dregnir úr sjó og þeim síðan hefir verið kastað út aftr, verði seinna dregnir lifandi að landi? Býst nokkur fiskimaðr við nokkru slíku? Og aftr — getið þér með nokkru skynsamlegu viti búizt við því, að þeir menn, sem ekki verða gengnir guði á hönd og búnir að kjósa sér vist í guðs ríki, þegar dómsdagr kemr, gjöri það úr því? Og hvað sem öllum slíkum getgátum líðr, þá munið eftir því, að drottinn kallar á oss alla inn í ríkið sitt eins og lífið, hið eilífa lífið, liggi við. Sjáið um, að þér verðið andlega lifandi, en ekki andlega dauðir, þegar þér af hinum mikla fiskimanni verðið dregnir í netinu hans upp á strönd eilífðarinnar.

---

## *NEARER, MY GOD, TO THEE.*

Eftir *Sarah Flower Adams*. Þýðing eftir séra Mattías Jokkumsson.

---

1. Hærra, minn guð, til þín,
hærra til þín,
enda þótt öll sé kross
upphefðin mín;
hljóma skal harpan mín:
,: hærra, minn guð, til þín, :,
hærra til þín!

2. Villist eg vinum frá
vegmóðr, einn,
köld nótt sé kringum mig,
koddi minn steinn,
heilög sé heimvon mín:
,: hærra, minn guð, til þín, :,
hærra til þín!

3. Sofanda sýn mér þá
sólstigans braut,

alfaðir, upp í þitt
eilífa skaut;
hljómi þá hátt til mín:
,: hærra, minn guð, til þín, :,
hærra til þín!

4. Árla eg aftr rís
ungr af beð,
guðshús úr grýttri braut
glaðr eg hleð.
Hver og ein hörmung mín
,: hefr mig, guð, til þín, :,
hærra til þín.

5. Lyfti mér lengst í hæð
lukkunnar hjól
upp yfir stund og stað,
stjörnur og sól,
hljóma skal harpan mín:
,: hærra, minn guð, til þín, :,
hærra til þín!

---

## GEORG *BRANDES*,

hinn danski rithöfundur og fagrfræðingr, sem mest áhrifin hefir á seinni árum haft á íslenzka námsmenn í Kaupmannahöfn, hefir nýlega í tímaritinu *Revue des deux Mondes* fengið sinn dóm hjá frakkneskum manni *Jean Thorel* að nafni.

Aðalefnið í því, sem sá rithöfundr segir þar um Brandes, setjum vér hér eftir norsku blaði:

„Það er höfuðverk Brandesar *Aðalbókmenntastraumar 19. aldarinnar*, sem Thorel leggr til grundvallar fyrir dómi sínum á ritstarfi hans. Hann sýnir, hvernig Brandes í þessu yfirgripsmikla verki fer með hina ýmsu rithöfunda og rithöfundaflokka og andastefnur þær, sem þeir hver um sig tilheyra, og ber svo þá meðferð hans saman við prógramm það, sem hann við ýms tækifæri segist sjálfr fara eftir í ritverki þessu í heild sinni.

Og kemst hann út af þeim samanburði að þeirri niðrstöðu, að hversu mikið sem Brandes vilji láta sýnast sem lærðr vísindamaðr, þá sé hann þó á undan öllu rithöfundr, sem berjist fyrir sérstökum uppáhalds-skoðunum sínum, og gefi sig miklu meira að því, að vinna þeim skoðunum fylgismenn heldr en hlutdrœgnislaust að leita að sannleikanum í bókmenntum þeim sem hann er við að eiga."

„Allt frá þeim tíma, er Brandes kom fyrst fram í Danmörk í deilunni út af kenningum þeim um „trú og vitund", sem Rasmus Nielsen kom með, hefir mátt sjá, hvernig hið magnaða trúarhatr hans hefir verið það einkenni á rithöfundarstarfi hans, sem öllu hefir ráðið. Gremja sú, sem hleypir honum út í baráttu gegn allri trú, samþýðist þó illa þeirri sannleiksást, sem heimtuð er af vísindamanni. Til þessa sýnist hann líka finna á sinn hátt, því hann er hvað eftir annað að fullvissa menn um, hve mikinn hug hann sem vísindamaðr leggi á það að rannsaka allar hinar ýmsu myndir, sem mannleg trúartilhneging birtist í. En sem maðr, rithöfundr og dómari þess, er uppi er í tímanum, hefir hann þó engu að síðr gjört sér hið mesta far um að grafa undirstöðuna undan allri trú, og leggr hann ávallt langtum meiri stund á það verk heldr en það að rannsaka opinberanir trúarinnar í lífi manna á vísindalegan hátt. Að þessu leyti er hann einnig á undan öllu öðru maðr tilheyrandi sérstakri hugarstefnu, sem mjög mikið þröngsýni er samfara. Hann sést sjaldan eiga við vísindalegar rannsóknir nema þegar hann hugsar, að hann geti beitt þeim sem vopni uppáhaldsskoðunum sínum til handa."

„Hinn frakkneski höfundr ætlar, að Brandes hafi í aðalriti sínu um bókmenntir, því er að framan er nefnt, komið með rammskakka mynd af heimi bókmenntanna um fyrra helming þessarar aldar, enda sé sú mynd þvert á móti því, sem hefði orðið, ef hann hefði dregið fram það í bókmenntalífi þess tíma, sem hann frá upphafi hafi þótzt ætla að gjöra að umtalsefni".

„Brandes sýnir ávallt sinn hlýja vinarhug til hins holdlega eðlis í manninum, er það setur sig upp á móti hinum gildandi siðalærdómi, og með lævísi mikilli hefir hann unnið að því, að œsa œskulýðinn upp gegn almennum siðgœðisboðum. Hann hefir prédikað ungum mönnum evangelíum ástríðnanna, og með sannkallaðri ástríðu hefir hann sjálfr lagt sig fram um það að

rugla hugmyndum tilheyrenda sinna um gott og illt. Allt, sem vanalega er talið svívirðilegt og lastvert, hefir hann hafið til vegs og sóma með því að lýsa því eins og það væri göfugt og yndislegt. Það hefir ávallt verið talið merki lítilmennsku og vesaldóms að gjörast þræll sinna lægstu tilhneginga. Hefði Brandes blátt áfram í búraskap sagt við hina ungu áheyrendr sína: „Lofið hinni svo kölluðu heilbrigðu skynsemi yðar að fara; látið náttúruhvatir yðar vinna sigr yfir skyldutilfinningunni; hlýðið að eins skilningarvitum yðrum og lofið vilja yðar og samvizku að feykjast eins og strái burt fyrir stormi líkamsfýsnanna," — hefði hann talað svona, er líklegt, að beztu lærisveinarnir hans hefði horfið burt frá honum. En í stað þessa hefir hann sagt við þá sem svo: „Að lifa samkvæmt boði skilningarvitanna, það er að vera maðr með karakter; að hörfa ekki undan neinu því, sem ástríðurnar heimta, það er að gjöra sitt einstaklings-eðli gildandi". Og þar sem kenningar hans hafa verið settar fram á þennan ísmeygilega hátt, hefir að miklu leyti horfið hið fráfælandi eðli þeirra, sem annars myndi hafa vakið grun hjá mönnum og komið þeim til að vara sig."

Býsna einkennilegt fyrir Brandes segir Thorel það sé, hvernig hann í bók sinni um náttúruskáldskapinn á Englandi fer með þá Byron og Shelly. Um *kritík* er hér ekki að tala hjá Brandes; hann er drukkinn af lotning fyrir skáldskaparanda þessara manna. Að því er Shelly snertir, fyllist Brandes einskonar guðmóði út af hinum mörgu guðlöstunum, sem koma fyrir í ritum hans. Byron er hans guð, eða, til þess ekki að særa hann með orði, sem hann hefir svo mikla óbeit á, æðsta hetjan hans, maðrinn, sem allt verðr að fyrirgefa af því að hann hefir endrfætt alla Evrópu. Byron er í augum hans hinn stóri punktr, sem öldin öll snýst um, langt um þýðingarmeiri persóna augsýnilega en Kristr. Uppreisnarandi Byrons og hin ákafa krafa hans um það, að náttúra einstaklingsins skuli ráða, er í augum Brandesar topp-punktr alls þess, sem tilbeiðsluvert er."

„Í augum Brandesar eru yfirhöfuð þeir rithöfundar miklir, sem hnegjast í einhverja byltingarátt, en hinnir aumingjar og vesalmenni, sem árætt hafa að tala gegn byltingum þeim, sem samfara hafa verið þeirra eigin tíma."

Um *Revivals* eða hina andlegu trúvakningarfundi nútíðarinnar segir *Spurgeon*: Í bœjunum allt í kring um oss og stundum í vorum eigin bœ er þá og þá haldinn mesti fjöldi af trúvakningarfundum, sem eg álít geggjaða og gagnslausa. Eg hefi heyrt getið um stórar samkomur, sem þyrpzt hafa saman að morgni dags, eftir miðjan dag og að kvöldi, í því skyni, að hlusta á einhvern alkunnan trúvekjanda, og undir prédikaninni hafa ýmsir hljóðað, œpt, oltið um koll og engzt sundr og saman; og þá er prédikarinn síðar benti hinum iðrandi mönnum á, að gjöra það eða það, og lét einn eða tvo aðstoðarmenn sína, einskonar andlegar veiðibjöllur, flýta sér á undan öllum öðrum að játa syndir sínar, þá gáfu sig fram mörg hundruð manna, sem þessi eina prédikan hafði hrifið með sér, og lýstu yfir, að þeir á þessari sömu stundu hefði snúizt frá villu vegar síns. Og alveg nýlega frétti eg, að sá orðrómr gengi út frá einum stað hér á Englandi, að einn tiltekinn dag hafi undir prédikan prestsins N. 17 persónur orðið alheilagar, 28 hafi sannfœrzt um synd sína og 29 öðlazt þá blessan að verða réttlátar fyrir guði. Næsta dag bœtast aftr við svo eða svo margir, og daginn þar á eftir enn svo og svo margir. Loks leggja menn allar þessar tölur saman, og verða það alls mörg hundruð, sem blessanina hafa eignazt fyrir þessar þrjár prédikanir og framkvæmd þessa sama prests. Allt þetta kalla eg leik. Það er hugsanlegt, að eitthvað sé hér gott með, en eins og það birtist á yfirborðinu, virðist mér það vera svo seyrið, að eg dirfist naumast að trúa því, að teljandi sé það, sem þetta hefir meðferðis af góðu. Þegar menn fara (í þessum efnum) að reikna svona nákvæmt, hugsa eg æfinlega, að þeir villist á því, sem þeir eru við að eiga. Það er hœgðarleikr að segja, að svo eða svo margir hafi bœtzt við kristinn söfnuð við gefið tœkifœri; en að halda sálnaregistr yfir alla þá, sem komizt hafa til þekkingar á synd sinni, orðið réttlættir og helgaðir, það er þvert á móti heilbrigðu viti.

---

Til háðungar kristniboðsmálinu eða mönnum þeim heima á Íslandi, sem því hafa hreift, sendu átján lærisveinar Möðruvallaskólans fyrir nokkru einum þessara manna tíu aura í bréfi.

Bréfið hefir víst verið fremr ljótt, enda býðr maðrinn, sem það var ritað til, séra Oddr V. Gíslason, höfundum bréfsins opinberlega í einu blaðinu þann kost að innleysa bréfið með 100 krónum kristniboðssjóðinum þeirra Sunnlendinganna til handa og þannig sleppa við þá vanvirðu, að fá bréfið á prent með nöfnunum öllum undir. Í *Fjallkonunni* svarar nú einn af þessum átján Möðruvellingum, Guðmundr nokkur Friðjónson, upp á þetta opna bréf frá séra Oddi í sínu nafni og félaga sinna, og byrjar það skjal svona:

„Ojæja; það er allt í dauðanum og djöflinum — ef eg má þá stóru persónu nefna — hér á landi. Deyfðin og sá hundgamli satans hugsunarháttr, að allt geti lafað á gömlu horriminni, skælir kjaftinn og gleypir hverja háleita hugmynd, sem prestarnir og hinir skriftlærðu af sér geta. Þetta sanna undirtektir manna undir kristindómsframlögin. Nógu hátt hafa þeir þó þarna í kjólunum hottað, en sá sauðsvarti hefir bara lagt kollhófur og bitið sitt gras í ró og spekt, því matrinn er fyrir öllu þeim, sem eru blóð og kjöt í húð og hár. En þannig er eigi háttað oss 18 Möðruvellingum, sem í vetr gengum í lið með framfaraþjóðunum til þess að reka fjandann brott úr mannlegu félagi“, o. s. frv.

Það er ljómandi sýnishorn af andanum og upplýsingunni, sem útgengr frá menntastofnunum Íslands, þetta opna bréf í *Fjallkonunni*. Það má víst óhætt fullyrða, að annað eins dókúment og þetta sést ekki á þessum tíma útganga frá nokkrum unglingum, er á skóla ganga um víða veröld, nema á Íslandi. Hver skólapiltr, sem semdi þvílíkt pródúkt og hefði ósvífni til að setja það í opinbert blað, yrði víst alls staðar nema við eina íslenzka skólastofnan rekinn úr skóla með háðung. Þetta er eitt dœmi upp á það, hvert svo eða svo stórt brot af skólamenntaninni íslenzku stefnir, og ein ágæt bending til þjóðarinnar í heild sinni um það, að hún þurfi að fá annan og betri anda í skólamenntan sína.

---

Nýr lúterskr söfnuðr, sem nefnir sig *Pétrssöfnuð*, hefir fyrir skömmu (á fundi 28. Okt.) verið myndaðr í Íslendingabyggðinni við Akra, Pembina Co., N. Dak., fyrir norðan Tungá. Sálnatala 132. Söfnuðrinn gekk þegar í kirkjufélagið. Hann hefir samið um prestsþjónustu framvegis við séra Jónas A. Sigurðsson, sem mestan

þáttinn hefir átt í safnaðarmyndaninni, og verða guðsþjónustur safnaðarins fyrst um sinn haldnar í húsi nokkru, nýendrbœttu, er lestrarfélag byggðarinnar á þar á hentugum stað.

Á þessu ári hefir kvenfélag íslenzka safnaðarins í Pembina-bœ, N. Dak., er samanstendr af örfáum safnaðarkonum, gefið kirkjunni þar mjög snotra klukku, 350 pd. að þyngd, sem með öllum útbúnaði kostaði um $75.00.

Í sumar hefir Pembina-kirkja einnig fengið á sig turn, mjög myndarlegan. Hann er eins og kirkjan sjálf með gotneskri lögun, 52 fet á hæð, með 2 gotneskum gluggum að framan, áttstrendr að ofan með krossi efst. (Lýsing á Pembina-kirkju er í „Sam." 4, 6.). — Alls kostar turninn og klukkan um $250—300.

Séra Jónas A. Sigurðsson þjónar nú 4 reglulegum söfnuðum: Vídalínssöfnuði, Pembinasöfnuði, Graftonsöfnuði og hinum nýmyndaða Pétrssöfnuði við Akra.

---

## TIL SKÓLANS.

Frá Ólafi Þorsteinssyni í Pembina, afhent gjaldkera skólanefndarinnar á kirkjuþingi (en ekki kvittað fyr en nú) $5,00. — Jakob Eyford $5,00. — Jón Brandsson (pr. Dr. Halldórsson) $2.00. F. J. B.

---

## LEIÐRÉTTINGAR.

Í ágripinu af æfisögu séra Björns B. Jónssonar í September-n.ri blaðs þessa stendr, að hann hafi flutzt með foreldrum sínum frá Íslandi árið 1875 í staðinn fyrir 1876. Þar segir og, að hann hafi stundað nám við *Gustavus Adolphus College* í St. Peter árið 1889—90, en á að vera: árin 1889—90 og 1890—91. Og í Október-nr.-inu, á bls. 123, seinast í greininni um árás séra Ólafs Ólafssonar á vestríslenzku prestana, stendr *Agrippa* í staðinn fyrir *Festus*. Vér gættum of seint að þeirri pennavillu til að geta leiðrétt hana í sama blaðinu.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson* sendir "Sameininguna" út. Adressa hans er: 164 Kate St. Til hans snúi menn sér viðvíkjandi afgreiðslu blaðsins.

---



---

„SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 nr. á ári. Verð í Vestrheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrir fram. — Skrifstofa blaðsins: 704 Fifth Ave. N., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Páll S. Bardal, Friðrik J. Bergmann, Hafsteinn Pétrsson, N. Stgr. Þorláksson, Magnús Pálsson, Jón Blöndal.

PRENTSMIÐJA LÖGBERGS — WINNIPEG.